# Líkræda

flutt vid jardarför

Landsyfirréttar Assessors

# Benedikts Grøndals.

ad Reykjavík þ. 8. ág. 1825

af

Hra. Stiptprófasti

## Arna Helgasyni.

Riddara af Dannebroge.

Videyjar Klaustri, 1833.
Prentad á kostnad Adjúnkts S. Egilssonar
af Prentara Helga Helgasyni.

Vid útför þess höfdíngja, sem hér er úr gardi geinginn, hvörn gáfur, staud og kjör í lífinu gerdu merkilegan, mundí ei illa vid eiga sú hugvekja, sem postulans Páls ord, í bréfinu til Philipp. 1. kap. v. 21, gefa tilefni til; þessi ord nefnilega: Kristur er mitt líf, daudinn er minn ávinníngur.

Pad kynni máske sýnast efunarmál, hvört þessi ord, daudinn er minn ávinníngur, mætti heimfæra uppá hvörn einn, sem burtkallast, eins þann únga og aldrada, eins þann, sem allt leikur í lyndi í lífinu, og hinn, er allt edur flest snýst til mædu. Þó var það spakra manna meiníng á fyrri öldum, ad í raun réttri væri manninum betra, ad deyja, en lifa: því þeir framlidnu hefdi þó hvíld, og hvört sem líf væri til, edur ekki, eptir þetta (því þar um voru menn þá, sem vonlegt var, í óvissu), þótti ekki mikils í misst, þó þetta líf útrynni án vonar, jafnvel um þess bætur seinna. Já, ad deyja jafnvel á enum ýngri árum, var haldid nádarmerki guddómsins af sumum hvörjum hygnum mönnum. Hvört þeir ýngri, þá eda sídan, hafi ordid enum eldri og reyndari hérí samdóma, læt eg ósagt. En, þótt þeir hefdi ei verid sömu meiníngar í því ad meta lífid þannig, þá sýnist sem þeirra álit á lífinu, er þektu það betur, og það af eigin-reynslu, ekki einasta þess indæli, heldur og þess annmarka, megi reiknast merkara heldur en hinna, sem valla þektu það nema á annan kantinn.

En þegar vér, sem kristnir, skodum þetta líf, í þeim tilgángi ad meta það saman vid daudann: vér, sem vitum og trúum, ad líf komi eptir þetta, og daudinn sé ad eins inngángur til þess betra lífs: vér, sem getum sagt, ad so

miklu leiti sem vor endurlausnari hefir leidt í ljós lífid og ó-daudlegleikann, ad Kristur sé vort líf; vér ættum ekki ad hika vid, med postulanum ad álíta daudann vorn ávinníng. Þótt vér finnum til lífsins indælis, geta víst lífsins ann-markar ei dulizt fyrir oss; og vér getum gert rád fyrir, ad hid himneska líf muni þó verda índælla og sælumeira, en hid jardneska getur nokkurntíma ordid; vér vitum þad med allri þeirri vissu, sem oss er unt ad hafa um ósýnilega hluti: auk þess sem þad er audvitad, ad undireins og vor jardneska tjaldbúd hnígur, hverfa allar þær meinsemdir, sem hennar og þessa heims ásigkomulag orsakar mannsins anda. Einkum er þó þeirra daudi ávinníngur þeim, hvørra líf Kristur var. Peir sem geta sagt, Kristur er mitt líf, þeir hinir sömu geta og med mesta rétti bætt hinu vid, daudinn er minn ávinníngur.

Sá ótti, sem manninum eptir hans edli stendur af daudanum, hverfur, þegar hann, styrktur af gódri samvizku og trúnni, virdir hann fyrir sér, sem Kristur hefir kent og kristnum hæfir. Sá kristni álítur ei daudann sem lífsins óvægan óvin, heldur guds sendiboda, gerdan út til ad sækja hvad skaparans er: til ad boda frelsi og líf: til ad flytja, ad sönnu inn á land, honum ókunnugt, en alkunnugt trúnni og voninni, guds útvalda, hvar von er á ad komast í sam-félag ádur burtfarinna vina og allra guds barna, sem sam-valin eru af öllum þjódum og túngumálum í kríngum drottins hásæti. Peir kristnu vita, ad hér verdur ei aun-ad eptir af þeirra veru en hid daudlega: ad andinn hverfur til guds, sem gaf hann, til heimkynna andanna födurs, hvar þeirra borgarréttur er. Sælir eru þeir, sem lifa Kristó, og lifa í þessari trú: daudinn er þeim vafalaus ávinníngur, þeir hvíla af sínu erfidi, þeirra verk og trú fylgja þeim.

Það getur að sönnu verið, að elska til lífsins á hinum yngri árum, í vísdómsfullum og gæzkuríkum tilgángi innplöntuð mannsins edli, sé hjá sumum so sterk, að trúin valla geti hana dempað; en, fái trúin styrk hjá lífsins sorglegu atburðum, verða þeir fleiri en færri, sem fúsir eru til með postulanum að gera þá játníngu: dauðinn er minn ávinníngur. Þegar ástvina missir grætir, féskortur heimsækir með sínum mörgu ókostum, og máské umfram allt, þegar þúngur og lángvinnur sjúkdómur þjáir, sem valla leifir einnar stundar ró: þá mínkar mjög so lífsins ágæti, þá kemur trúarinnar kraptur sér við, og sannfærir manninn um, að dauðinn sé hér ávinníngur.

Leingi mun því eflaust sá framliðni höfdíngi, hvörs dauðlegu leifum vér nú viljum veita þá síðustu þjónustu, hafa álitið dauðann sinn ávinníng, ekki einasta leingi við hans komu búizt, heldur beðið síns dauðadags, sem síns endurlausnardags: so þjáníngarfull voru honum þau seinustu hartnær full 16 ár af hans æfi, að mörgum með minna sálarkrapti og þoli mundu þau hafa orðið óbærileg, leidt suma til mögls, aðra til örvæntíngarfulls lífs. En, hann beið þolgóður síns lausnartíma, og áleit dauðann, sem hann rannar öllum er, þeim sem nokkra von hafa, sinn ávinníng.

Þau helztu atriði af hans æfi, að so miklu leiti sem mér er kunnugt, eru þessi. Hann er fæddur nyrðra þ. 13. nóv. 1762, gekk 4 ár í skóla á Hólum í Hjaltadal, og var þaðan útskrifaður 1781, með góðum vitnisburði, bæði fyrir gáfur, hegðan og lærdóms framfarir. Þar eptir var hann skrifari Stiptamtmanns sál. Olafs Stephánssonar; en sigldi til Kaupmannahafnar háskóla 1785, og tók fyrsta Examen með sérdeilis hrósi snemma á næsta ári þar eptir, og á sama ári hið annað í heimsspekinni, og so með besta

karakter. Tvo næstu ár þar eptir lagdi hann sig eptir þekkíngu enna lærdu túngumála og þeirra so kølludu fallegu vísinda med sama framgángi, og nádi þar í framúrskarandi lærdómi; en idkadi frá 1781 til 1791 løgspeki, og þetta seinast nefnda ár í júní-mánudi lét hann sig yfirheyra í þessum vísindum, þared sjúkdómur, er kallast mislíngar, hindrudu hann frá því áformi í apríl sama árs. Skømmu þar eptir, nefnil. 19. ág., vard hann Víceløgmadur, en 11. júl. 1800 Assessor í þeim konúnglega íslenzka lands-yfirrétti. Vid útgaungu jan. mánadar komu yfir hann þau veikindi, sem loksins gerdu enda á hans lífi. Þ. 18. júní 1817 fékk hann lausn í nád frá sínu embætti med 600 silfurdala pensíón, og burtkalladist þ. 30. næstlidins mánadar. Hjónaband inngekk vor framlidni med sinni nú eptirþreyjandi frú kærustu árid 1796. Þad hjónaband blessadi gud med 4 dætrum, hvar af tvær lifa, hin eldri, gipt hra. Adjúnkt S. Egilssyni, hin ýngri er enn ógefin í húsi sinnar elskudu módur.

Mestallt æfiskeid vors framlidna var heldur en ekki erfitt og mædufullt. Vid lítil efni braust hann fram til þeirrar menníngar og frama, er náttúran hafdi gért hann hæfilegan til, og forsjónin hafdi honum ætlad. En, leingi vard hann ad bída ávaxta sinnar áreynslu og sjálfs-afneitunar: því víceløgmannsembættid var ad eins von-arinnar, og ekki uppskerunnar embætti. Og, eptir ad hann vard Assessor í landsyfirréttinum, og hafdi fyrst feingid nægilegt uppheldi sér og sínum, lagdist hann ad níu ára fresti í þá þúngu veiki, er loksins leiddi hann heim 63. ára ad mestu. En forsjón guds, sem hafdi ætlad honum þetta erfidi, strádi þó indæli med í hans hlutdeild, med því ad gefa honum einar þær liprustu gáf-ur, og þad gódlyndi og spaklyndi, sem hinn vísi kallar

daglegt sælgæti. Færri af þeim, er honum lifdu samtída, höfdu betri gáfur en hann; þó var gáfa til skáldskapar, bædi til ad semja ljódmæli, og dæma um ljódmæli og málsnildar verk, sú sem fram úr skaradi, so hér í vav traudlega nokkur, sem væri hans jafníngi, uppi á hans dögum í voru landi. Þau ljódmæli, sem sézt hafa frá hans hendi, bera vitni um háar og sterkar hugmyndir og skapandi ímyndunarkrapt; Þad sem hann og samid hefir af þessháttar verkum, sýnir, ad hann hafi mjøg vandad verk sín, og ekki látid sér nægja hid algeinga, hvørki ad þaunkum né ordfæri. Í þekkíngu vors módurmáls og hinna lærdu túngumála, látínu og grisku, hafdi hann aflad sér mikilla fjársjóda, fremur flestum, ef ei øllum, sem med honum lifdu hér innanlands. Í daglegri umgeingni var hann sidprúdur, spaklyndur, jafnlyndur og skemtilegur. Med hægd og fyndni notadi hann hvørt tækifæri til meinlausſ gamans sér og ødrum, hvørju samfara vard og so hid uppbyggilega. Í sínum lángvinnu veikindum var hann øruggur, trú- og vongódur; kom þá fram gedsmunanna spekt og sálarinnar táp í þoli, sem ádur hafdi sýnt sig í gódlyndi og ímyndunarkrapti. Þetta hid sama esldist af trúarinnar athvarfi og von þeirrar lausnar, sem nú er feingin, hvørrar hann leingi vænti, og vænti sem síns ávinníngs, því hann kalladi daudann slutníng til fødurhúsanna, eins og hvor einn kristinn med mesta rétti getur hann álitid.

Án þess nú framar ad minnast á æfi og lífs atridi þessa vors sæla høfdíngja, ætla eg andrádid, ad hann hafi álitid, og haft orsøk til ad álíta daudann sinn ávinníng. Því auk þess ad hann hafdi hvørs kristins manns von, var aldurinn ordinn tøluverdur, børnin uppkomin, lífid mædufullt og þúng byrdi, ei alleina honum, heldur og þeim

sem honum voru næstir. Því þótt elskan finni ánægju í ad bera þúngann med eda fyrir sinn ástvin, getur fleira verid þúngt en á sjálfum liggi; og þeim framlidna mun ei hafa dulizt, hvad hans góda kona hafdi hans vegna ad bera, mitt í því hún trúlega, med staklegri þolinmædi og nákvæmni, annadist hans naudsynjar.

En, og so hans eptirþreyjandi ástvinir geta álitid vidskilnad þessa framlidna sinn, sem hans, ávinníng: hans, vegna trúarinnar; sinn, vegna þess ad nú er af þeim létt þeirri raun, sem hans þjáníng í so lángan tíma hefir þeim verid; hvorja raun sá einn getur best metid og best bætt og umbunad, sem veit, hvad mannsins hjörtu mest særir og áreitir.

En, í því vér samfögnum þeim undan okinu tekna sæla framlidna, og þeim, er hans þjáníng gekk næst hjarta: í því vér könnumst vid, ad sú umbreytíng, sem hér er ordin, hafi verid hans og þeirra ávinníngur: so látum oss hugfesta med sjálfum oss, ad læra ad meta daudann sem vorn ávinníng, og helga Kristi vort líf; ad meta daudann soleidis, þegar lífid hefir heyrt Kristi til, og so þó hann adkomi á hinum yngri árum, þó hann heimsæki oss mitt í lífsins velgeingni: so vér getum, nær sem drottinn segir, "komid aptur, þér mannanna börn", geingid inn í hinn dymma dal og daudans skugga, med þeim stödugu fótsporum og verdugleika, sem kristnum hæfir ad audsýna: kristnum, sem trúa og vita, ad daudinn sé þeirra ávinníngur, og ad þad sé gott, ad fara hédan og vera med Kristi. Amen.

